Arðrændir og kúgaðir allra landa - sameinist!



# VERKALÝÐSBLAÐIÐ

Málgagn Einingarsamtaka kommúnista (marx-lenínista)

21. tbl. 4. árg. 14. nóv. - 28. nóv. 1978 Verð kr. 150

## Akureyri:

# Enginn samvinnuvilji hjá Eimskip

Kjaradeila hafnarverkamanna á Akureyri við Eimskip heldur áfram (skrifað 10. nóv.). Hafnarverkamenn gera kröfu um að njóta sömu réttinda til kaups og kjara og hafnarverkamenn við aðrar hafnir á svæði Einingar við Eyjafjörð.

Brúarfoss kom 31. október til Akureyrar að sækja freðfisk. Verkamenn fóru sér hægt við vinnu og gengu frá borði eftir að dagvinnu lauk. Fyrir vikið tafðist skipið um einn dag á Akureyri. Eimskip leggur mikið upp úr því að freðfiskleiðangrar skipanna umhverfis landið gangi sem hraðast fyrir sig. En þrátt fyrir verkföll og hægagangsvinnu við Akureyrarhöfn sýnir Eimskip engan samningsvilja og aðgerðir verkamanna halda því áfram. Næsta skip er væntanlegt í vikunni 12.-19. nóvember.

Einingarsamtök kommúnista á Akureyri hafa dreift flugriti til stuðnings hafnarverkamönnum, í frystihúsi Útgerðarfélags Akureyringa, við höfnina og víðar. Það fór óskaplega í taugar forstjóra ÚA og Jóns Einingarformanns (sem jafnframt er stjórnarmaður í ÚA). Létu yfirmenn ÚA stöðva dreifingu flugrita í kaffitíma verkafólks þann 7. nóvember og lögðu blátt bann við dreifingu innanhúss í framtíðinni. EIK(m-l) á Akureyri fordæma þessa skerðingu persónufrelsis, sem felst í banni á flugritadreifingu í ÚA og ekki síst í því að verkafólki er meinað að lesa það sem því sýnist! Verkamenn við höfn-

Frh. bls. 3.

## Krepputónn fjárlagafrumvarpsins:

# Aukin skattpíning, rýrnun kaupmáttar, niðurskurður á framkvæmdum og framlögum til félagsmála

Í opnu blaðsins er úttekt blaðsins á fjárlagafrumvarpi því sem liggur fyrir Alþingi. Grunntónninn í því er þessi: Rýrnun kaupmáttar launafólks og samdráttur á öllum sviðum verklegra framkvæmda og niðurskurður á opinberum framlögum til félagsmála. Með öðrum orðum: Hér er á ferðinni umbúðalaust kreppufrumvarp og í því birtist ljóslega arðránsstefna "vinstri"stjórnarinnar. Ætlunin er að reyna að láta verkafólk og launafólk allt axla byrðarnar af vaxandi kreppu auðvaldsskipulagsins. "Lykilatriðið í stefnu ríkisstjórnarinnar er að henni takist að skerða eða afnema verðbótavísitöluna 1.des.næstkomandi og að laun verði fryst fram að 1.des. 1979. Það er því lykilatriðið í baráttu launafólks nú að verja þá verðbótavísitölu sem er í gildi. Krafan verður að vera: Óbreytt verðbótavísitala og fullar verðbætur á laun 1.desember", segir í niðurlagi greinarinnar í opnu.

4-5

# BRÝNT AÐ TENGJA SJÁLFRÆÐISBARÁTTUNA VIÐ RÍKJANDI HEIMSÁSTAND

## - viðtal við félaga í framkvæmdanefnd Baráttuhreyfingar 1. desember

Nú fer að líða að lokaátaki í 1.des.-starfinu. Af því tilefni hafði Verkalýðsblaðið samband við tvo félaga framkvæmdanefndar Baráttuhreyfingar 1. desember og lagði fyrir þá nokkrar spurningar. Þeir sem blaðið ræddi við eru Guðmundur Sæmundsson, formaður framkvæmdanefndarinnar og Edda H. Atladóttir, sem á sæti í skemmtinefnd. Við spurðum félagana fyrst, hvers vegna svo nauðsynlegt væri að viðhafa öflugt starf í sambandi við 1.desember.



Edda Atladóttir og Guðmundur Sæmundsson

Andheimsvaldabarátta hérlendis hefur undanfarin ár um of mótast af baráttu gegn aðeins sumri heimsvaldastefnu, þ.e. þeirri bandarísku. Þar með er gengið fram hjá þeirri bláköldu staðreynd, að sovéskir heimsvaldaseggir hafa hafið stórfelldan undirbúning að nýrri heimsstyrjöld og nýrri uppskiptingu heimsins í áhrifasvæði og markaðssvæði. Við teljum nauðsynlegt að tengja baráttuna fyrir verndun íslensks sjálfræðis við þessa staðreynd og við það alþjóðaástand sem nú er ríkjandi. Án þess yrði öll barátta fálmið eitt, sbr. árangurslaust og hálfdautt starf Samtaka herstöðvaandstæðinga. 1.desember er merkasti dagur í sjálfstæðis- og sjálfræðisbaráttu íslenskrar alþýðu. Það er því vel til fallið að gera hann að táknrænum degi fyrir þessa baráttu.

-Hver eru helstu vand-

Frh. á bls. 2

## Jan Mayen-málið:

# ENGIN MIÐLÍNA!




"Það þjónar sameiginlegum hag og vináttu alþýðu landanna tveggja að íslenska þjóðríkið ráði óskertri fiskveiðilögsögu sinni." Sjá leiðara á bls. 2 um hvort nota beri miðlínuregluna milli Jan Mayen og Íslands.

# Er Sókn að ganga í BSRB?

Á starfssvæði Starfsstúlknafélagsins Sóknar hafa komið upp hugmyndir um að Sókn eða hluti Sóknarkvenna gangi úr félaginu og verði félagar í BSRB.

Slík félagsskipti myndu leiða til þess að þær fengju sama kaup en misstu margvísleg réttindi sem verkafólk hefur áunnið sér með harðri baráttu í gegnum árin, réttindi sem BSRB hefur enn ekki náð fram, svo sem fullan verkfallsrétt.

Um þessi mál er fjallað í greininni "BSRB leysir ekki vanda okkar!" á blaðsíðu 3.

3

VERKALÝÐS BLAÐIÐ



# ENGA MIÐLÍNU MILLI JAN MAYEN OG ÍSLANDS

Sl. vor gerðu kommúnísku samtökin á Íslandi EIK(m-l), og Kommúnistaflokkur verkamanna(m-l) - AKP(m-l) í Noregi með sér samþykkt þar sem fjallað er m.a. um Jan Mayen og 200 mílna fiskveiði- og efnahagslögsögu þar. Í samþykktinni ítreka EIK(m-l) og AKP(m-l) þá sameiginlegu afstöðu sína að Jan Mayen og Svalbarði sé norskt land. AKP(m-l) ítreka þá afstöðu sína þar,að norska ríkisstjórnin geti ekki notað miðlínuregluna (skipta hafsvæðum jafnt milli landa sé minna en 400 mílur á milli þeirra) á svæðinu milli eyjunnar og Íslands. Það hefði í för með sér að tekin yrði um 30.000 ferkm. sneið af núverandi fiskveiðilögsögu Íslands.

EIK(m-l) eru þessu sammála. Ef norska ríkisstjórnin héldi miðlínureglunni til streitu væri það yfirgangsstefna. AÐ auki bryti það í bága við uppkast Sameinuðu Þjóðanna að hafréttarsáttmála, sem líkur eru á að verði samþykkt. Þar segir m.a. að eyjar þurfi að hafa sjálfstætt efnahagslíf til að geta notast sem grunnpunktur efnahags- eða fiskveiðilögsögu.

En meginatriði málsins að mati íslenskra og norskra kommúnista er þetta: Það þjónar sameiginlegum hag og vináttu alþýðu landanna tveggja að ísl. þjóðríkið ráði óskertri fiskveiðilögsögu sinni.

Þetta stýrir starfi okkar, en rétt er að taka fram að EIK(m-l) álíta miðlínureglunа að sjálfsögðu réttmæta við flestar aðstæður.

EIK(m-l) krefjast þess að íslenska ríkisstjórnin hafni öllum kröfum um skerta fiskveiðilögsögu. Samtökin vita þó mætavel að ríkisvaldið lætur stjórnast af gróðahagsmunum ísl. auðvalds og vill sýna kröfum erlends auðvalds "sanngirni". Að baki því býr m.a. áhuginn á járnblendinu norska og fleiri ásóknartilraunum norsks einokunarauðvalds.

Það er einungis hreyfing meðal alþýðu landanna, og þá sérstaklega á Íslandi sem sker raunverulega úr um hvernig fer. Haldi ríkið umræddu hafsvæði án þessarar hreyfingar hafa farið fram hrossakaup.

Nú er afstaða Ísl. ríkisstjórnarinnar óljós. Því verða sem flestir einstaklingar, hagsmunasamtök (t.d. sjómanna) og pólitísk samtök að fylgja fordæmi EIK (m-l).

Klassekampen - dagblað AKP (m-l) - birti leiðara um Jan Mayen málið þann 23. okt. Þar var afstaða flokksins ítrekuð, vitnað í ályktun EIK(m-l) og hans og lýst yfir eindreginni samstöðu með málstað ísl. alþýðu. Kom þar í ljós sönn alþjóðahyggja og hvar sjálfræði þjóðarinnar íslensku og alþýðu landsins á sér talsmenn í Noregi. Ekki í sölum ríkisvaldsins og auðhringanna, heldur meðal verkalýðsins, annarar alþýðu og flokks hennar.

# 1. DES. STARFIÐ

Nú eru u.þ.b. 20 dagar til 1. dags desembermánaðar. Þá verða 60 ár liðin frá því þjóðin tók stærsta skrefið til sjálfstæðis og sjálfræðis. Ísl. auðstétt stendur ekki vörð um sjálfræðið. Það er verkalýð og öðrum hlutum vinnandi alþýðu mikilvægt að verja fengið þjóðfrelsi. 1. des-hreyfingin er samfylking sem mun gangast fyrir baráttuaðgerðum í til efni af 1.desember.

Þær beinast að risaveldunum báðum, erlendri ásælni hvers konar og að varðveislu sjálfræðisins.

EIK(m-l) styðja hreyfinguna og starf hennar. Samtökin hvetja félaga sína og stuðningsmenn til að taka starf fyrir hreyfinguna inn í pólitískt starf og vinnu sína. Dreifing dreifirita, merkjasala, bæklingasala, útvegun fólks til starfa - allt eru þetta forsendur góðs árangurs. TIL STARFA!

Framkvn. miðstjórnar 10.nóv.

# „KFÍ/ML" og Baráttuhreyfing 1. des.:

# Stuðningur í formi hugskeyta !

Á kappræðufundi EIK(m-l) og "Kommúnistaflokks Íslands" ("KFÍ/ML") í október s.l. lýsti Gunnar Andrésson því yfir, vegna fyrirspurnar þar að lútandi, að "KFÍ/ML" myndi styðja Baráttuhreyfingu 1. desember og líka starfið fyrir 1. desember í Háskóla Íslands (þetta sagði Gunnar raunar áður en stúdentar kusu um það hvort Verðandi eða Vaka ætti að búa til útvarpsprógram 1. desember!). Hins vegar hafa ýmsir velt fyrir sér hvort stuðningur "KFÍ/ML" við Baráttuhreyfingu 1. des. sé að mestu fólginn í hugskeytum og huglægum straumum. Fátt hefur sést til "flokksins" annað en það að senda einn mann á liðsfund 7. nóvember. Forðaðist sá eins og heitan eldinn að taka þátt í fundinum nema sem áhorfandi.

VB sló því á þráðinn til Gunnars Andréssonar og spurði hann um afstöðu "flokksins" til starfs Baráttuhreyfingar 1. des. Gunnar átti í fyrstu dálítið erfitt með að átta sig á inntaki spurningarinnar, spurði hvort átt væri við "samfylkinguna sem EIK-arar eru með upp í Háskóla" (!). Hann rámaði þó í að "flokkurinn" hafi fengið sent dreifirit og fleira frá samfylkingunni og taldi ekkert vera í stefnu hennar sem "KFÍ/ML" gæti ekki stutt. "Við munum auðvitað styðja Baráttuhreyfingu 1. desember, þó að ég komi ekki til með að starfa þar sjálfur", sagði Gunnar. Hann taldi ennfremur víst að Stéttabaráttan, blað "KFÍ/ML", myndi birta fréttatilkynningu samfylkingarinnar innan tíðar, en blaðið hefur ekkert skrifað um hana til þessa.

Þess má að lokum geta, að Stéttabaráttan birtir gagnmerka hugleiðingu í 14. tbl. undir heitinu "Er fullveldis dagurinn úreltur". Þar er að finna eftirfarandi boðskap: "1. desember minnist þjóðin sjálfstæðisbaráttunnar. Þessi setning gæti verið upphaf lofræðu um hið íslenska þjóðfélag eða eitthvað í þeim dúr. Setningin er nefnilega helber ósannindi, þjóðin heldur engin hátíðahöld eða gerir frekari áætlanir um sjálfstæðisbaráttu" (undirstrikun VB)

Ritnefnd VB heitir þeim sem skilur framangreinda klausu úr Stéttabaráttunni góðum verðlaunum.

# Baráttuhreyfing 1. des.

Frh. af forsíðu

kvæði sem þið hafið mætt í starfinu?

Starfið gengur alveg ágætlega. Það sem hreyfingin berst fyrir fær góðar viðtökur hjá fólki. Flestir eru sammála því að það þurfi að gera eitthvað. En það gengur þó ekki nógu vel að fá fólk til að gera eitthvað í málinu. Við höfum líka lent í vandræðum með að fá nógu stórt húsnæði 1.des. Allir stærri skemmtistaðir eru uppteknir, því að 1.des. er á föstudegi. Nú, og svo eru fjármálin alltaf hálfgerður hausverkur.

- Þið hafið sett ykkur hátt mark varðandi fjáröflun. Hvernig ætlið þið að ná því?

Það tekst, ef allir félagar gera sitt besta við að selja merki og bæklinga og safna peningum fyrir hreyfinguna. Það versta er, hvað peningarnir koma seint inn. Fólk skilar ekki nógu fljótt af sér. Helst þyrftu sem allra flestir að kaupa sér góðan skammt af merkjum og bæklingum til sölu og borga strax. Þeir sem ekki geta það, verða hins vegar að skila jafnóðum peningum, svo að hreyfingin lendi ekki í vanskilum og skuldasúpu og starfið lamist ekki.

- Hver eru helstu atriði þess sem eftir er af starfi hreyfingarinnar?

Fyrst er það liðsfundurinn 23.nóv., sem verður síðasti liðsfundur fyrir 1.des. Eftir 1.des. ætlum við svo að halda enn einn liðsfund til að meta starfið og árangur þess. Um það leyti sem vika er eftir af starfinu er áformað að gefa út annað dreifirit í stóru upplagi til dreifingar í hús, og líklega verður gefið út annað plakat með auglýsing um dagskrá aðgerðanna. Nú, svo eru það aðgerðirnar sjálfar.

- Og hvernig verða þær?

Aðgerðirnar verða í tvennu lagi. Um kl.17$^{00}$ 1.des. verður stuttur útifundur í miðbænum. Þar verða ávörp, söngur o.fl. Síðan verður farið að styttu Jóns Sigurðssonar og lagður að henni blómsveigur, sunginn fjöldasöngur og flutt ávörp.

Hinn hluti aðgerðanna verður baráttufundur, sem haldinn verður í Glæsibæ kl. 15$^{00}$, laugardaginn 2. desember. Þar verður fjölbreytt dagskrá, mikið af skemmtiefni, stutt ávörp - m.a. eitt frá bandarískum komma, sem verður gestur fundarins - og margt fleira. Einnig er ákveðið að Nafnlausi sönghópurinn komi fram.

- Nokkuð að lokum? Edda?

Ég vil leggja áherslu á að í Baráttuhreyfingu 1.des., sem er samfylking einstaklinga, gefst öllu fólki tækifæri til að sýna baráttuvilja sinn í verki. Misvitrum stjórnmálamönnum og flokkum þeirra er ekki treystandi til að berjast af neinni alvöru fyrir verndun sjálfræðisins og gegn allri heimsvaldastefnu.

- Guðmundur?

Ég vil nota tækifærið til að leggja áherslu á þörfina fyrir þátttöku sem flestra í því starfi sem eftir er. Aðgerðirnar verða því aðeins öflugar, að sem allra flestir taki þátt í undirbúning og áróðursstarfi fyrir þær.

# Haustfundur 8. mars-hreyfingarinnar 22.nóv. kl. 8.30

Haust-liðsfundur 8.mars hreyfingarinnar verður haldinn að Freyjugötu 27, (Sóknarsalur), 22.nóv. n.k. kl 8.3o.

8.marshreyfingin var stofnsett í febrúar í fyrra og starfaði að undirbúningi Alþjóðlega kvennadagsins 8.mars.

Þá hélt hreyfingin fjölmennan og vel heppnaðan baráttufund á eftirfarandi grundvelli:

1. Gerum 8.mars að baráttudegi!
2. Gerum verkalýðsfélögin að baráttutækjum!
3. Dagvistunarrými fyrir öll börn!
4. Fulla atvinnu - gegn fjöldauppsögnum!
5. Sjálfsákvörðunarrétt kvenna til fóstureyðinga!
6. Gegn allri heimsvaldastefnu!

Liðsfundurinn sem haldinn verður núna er boðaður á þessum sama grundvelli af undirbúningsnefnd sem kosin var í maí s.l. Við viljum hvetja alla baráttusinna að mæta á þennan 1.liðsfund, þannig að starfið fyrir 8.mars geti hafist sem fyrst.

GERUM 8.MARS AÐ BARÁTTUDEGI!

Undirbúningsnefndin.

# Fjársöfnun Október-forlagsins

Fyrir tæpum tveimur mánuðum ákvað forlagsráð Október-forlagsins að efna til framhaldsfjársöfnunar til styrktar forlaginu. Skyldi safna um 1oo.ooo kr. mánaðarlega til 1.des.

Árangurinn hefur ekki reynst fullnægjandi . 8.nóv. höfðu safnast kr. 92.374,- , sem eru aðeins rúm 50% af settu marki. Orsök þessa er a.m.l. tvíþætt. Ekki hefur verið unnið skipulega að söfnuninni og hún vikið fyrir mörgum öðrum verkefnum stuðningsmanna forlagsins. Í annan stað hefur VERKALÝÐSBLAÐIÐ ekki birt tilkynningar frá Október s/f um söfnunina og árangurinn. Mjög fáir hafa því í raun vitað um söfnunina. Þetta eru slæm mistök og vanræksla.

Október-forlagið, Verkalýðsblaðið og EIK(m-l) meta nú starfsaðferðir sínar varðandi söfnunina og munu breyta til batnaðar.

Við hvetjum lesendur Verkalýðsblaðsins til að rétta Október-forlaginu stuðningshönd. Fjármagnið fer í að auka úrval bókabúðarinnar að Óðinsgötu 3o í Reykjavík. Sendið fé með póstávísun á pósthólf 5186, 1o5 R.vk. eða komið í búðina.

Október s/f Verkalýðsblaðið EIK(m-l)



# Gerum stéttarfélögin að baráttutækjum

## Sóknarfélagar: BSRB leysir ekki vanda okkar!

Félagar Starfsmannafélagsins Sóknar eru meðal lægst launaða verkafólks landsins. Í Sókn eru nær eingöngu konur. Víða á vinnustöðum þar sem Sóknarstúlkur vinna eru þær látnar gegna störfum sem gert er ráð fyrir að faglært fólk vinni og auðvitað fyrir sama lága kaupið. Byrjunarlaun Sóknarkonu eru nú um 144.ooo krónur á mánuði. Eftir þriggja ára starf í venjulegri vaktavinnu eru launin orðin 153.ooo, hvorki meira né minna. Vaktaálag er 33% af tímakaupi og gerir það núna 293 kr. á tímann. Víst er að enginn verður feitur af þeim launum og ekki að furða að óánægja með launin fari sívaxandi meðal Sóknarkvenna.

LÁG LAUN LEIÐA TIL TÍÐRA MANNASKIPTA.

Stuttur starfstími einkennir þá vinnustaði þar sem Sóknarkonur vinna. Þetta er sérstaklega bagalegt á t.d. stofnunum fyrir vangefna, geðsjúka, barnaheimilum og annarstaðar þar sem persónuleg samskipti eru ríkur þáttur í starfinu. Yfirmenn deilda, svo sem fóstrur, þroskaþjálfar o.fl. taka þess vegna nú í auknum mæli undir kröfur um bætt kjör þessa starfsfólks.

Það eykur ekki á löngun Sóknarkvenna til að halda vinnu sinni,að við hlið þeirra á vinnustöðunum hafa orðið til stöður skipaðar ófaglærðu fólki sem vinnur hliðstæð störf og Sóknarkonur, en fyrir mun hærri laun. Er hér um að ræða störf sem karlmenn "þurfa að vinna", svo sem gæslustörf á Kleppsspítala og s.k. uppeldisfulltrúa á Upptökuheimilinu í Kópavogi. Enginn karlmaður fengist til að vinna þessi störf á Sóknarkaupi. Þeir eru því skipulagðir innan BSRB og hafa fengið starfslýsingu við sitt hæfi til að fóðra hærri laun.

Eru þessir aðilar vel að sínum launum komnir. En með þessu skipulagi launamála er Sóknarkonum misboðið. Til þess að fá karlmenn í þessa vinnu þarf að borga hærri laun og eru þá búnar til nýjar stöður. Það eru um 14.ooo króna munum á hæstu launum Sóknarstúlkunnar og lægstu launum hins ófaglærða vinnufélaga hennar. Á lægstu launum hennar og hæstu launum hans munar allt að 68.ooo krónum.

ERU LAUNIN ÁKVEÐIN EFTIR FÉLÖGUM EÐA STARFI?

Starfsstúlkur á barnaheimilum í nágrannasveitarfélögum Reykjavíkur teljast til BSRB og taka laun skv. 5.launaflokki. Munar um 1o.ooo kr. á neðsta taxta hjá þeim og efsta taxta hjá Sókn.

Af öllu þessu þarf engan að undra að upp eru komnar hugmyndir á vinnustöðum Sóknar um að segja sig úr Sókn og sækja um inngöngu í BSRB. Hafa ýmsir yfirmenn á stofnunum ýtt undir þessar hugmyndir með alls kyns sögusögnum um að þessi breyting sé á næsta leiti. T.d. gerðist það að á s.l. vetri fóru starfsmenn á Kópavogshæli í "lyfjaverkfall", en þar hafði stór hluti ófaglærðs fólks verið látið gefa lyf. Yfirmenn lofuðu starfsfólki inngöngu í BSRB, ef það vildi gefa lyf(!) og varð árangurinn sá að 2-3 konur fengu inngöngu í BSRB, 5.l.fl. Þessar konur stjórna jafnframt deildum. Laun þessara kvenna hækkuðu, en hinna stóðu í stað, en allar unnu sömu störf og áður.

Látið er að því liggja að það sé sjálffengið að launin hækki við það að skipta um félag, fara úr Sókn í BSRB. Það er líka látið að því liggja að verið sé að vinna að því að þorri Sóknarkvenna flytjist yfir í BSRB. Hvort tveggja er vitleysa. Hér er aðeins um getgátur og hugmyndir að ræða. Lagalega er sjálfsagt hægt að flytja sig úr einu félagi í annað. Og jafnvel að allir félagar Sókn flytjist í BSRB. Hitt er svo auðsætt að við það eitt hækka ekki laun verkakvenna. Það þarf enginn að halda að t.d. stjórnendur Ríkisspítalanna samþykktu það orðalaust að laun "fyrrverandi" Sóknarkvenna hækkuðu um 2o-40% við það eitt að skipta um félag. Annað hefur reynslan sýnt.

STYRKUR BARÁTTUNNAR ÁKVEÐUR LAUNIN.

Ástæðan fyrir því að starfsstúlkur eru svo lágt launaðar er sú að þær eru ófaglærðar verkakonur, hreyfing er mikil á markaðinum og framboð að jafnaði meira en eftirspurnin og hátt hlutfall húsmæðra í starfinu. Stéttarfélagið er veikt og auk þess er því haldið í skefjum af forystu ASÍ, sem m.a. lagðist gegn verkfalli Sóknar veturinn 1976 og knúði fram prósentureglunna í sérkröfur.

Þó svo að Sókn sé ekki sterkt stéttarfélag, þá er til margt í starfi og skipulagi Sóknar sem ekki er í BSRB-félögum. Yfirleitt er BSRB aðeins virkt meðal forystunnar og hún gerir ekkert til þess að virkja almenna félaga, nema til að styðja við bakið á forystunni þegar hún þarf á því að halda. Sem dæmi má nefna að almennir fundir eru nær óþekktir í BSRB og fundir deilda innan félaganna eru afar fátíðir. Fundir toppmanna eru hinsvegar tíðir og allskonar ráðstefnur og sérfræðingafundir.

Verkfallsréttur félaga innan BSRB er enginn. Það sem til er af þessum réttingum, er algerlega í höndum forystu BSRB. Ákvarðanir um samningamál eru sömuleiðis í höndum forystunnar. Almennir félagar hafa þar engin áhrif öðru vísi en í gegn um fulltrúa sem sitja fulltrúaráðsfundi, en sú leið er löng og torsótt.

Starfsstúlknafélagið Sókn hefur hins vegar óskorað vald til þess að móta eigin kjarakröfur og er það gert á almennum félagsfundum. Félagið hefur sinn rétt til að lýsa yfir verkfalli. Það er ekkert vald sem getur gripið þar inn í öðru vísi en með því að brjóta lagagreinar vinnulöggjafarinnar.

Leið ófaglærðra verkakvenna til þess að fá hærri laun er aðeins ein og það er að beita félagi sínu sem baráttutæki. Það krefst samheldni og áræðni til að taka málin í eigin hendur. Þess vegna er rétt að segja - gerum verkalýðsfélögin að baráttutækjum. Sókn hefur margt umfram félög BSRB, sem gerir félagið líklegra til að taka upp virka og hvassa baráttu. Margt af því sem Sókn hefur áunnið sér með baráttu, eiga félög innan BSRB eftir að berjast fyrir. Því er það afturför ef Sóknarkonur láta ginnast til að flytja sig úr Sókn yfir í BSRB. Það myndi þýða sömu lágu launin og missi margvíslegra réttinda og möguleika til að hafa áhrif á kjarabaráttuna.

Fyrsta skref Sóknarkvenna til þess að bæta kjör sín er að fjölmenna á fyrirhugaðan félagsfund í Sókn sem haldinn verður um miðjan nóv. Berjumst þar fyrir því að hinum lélegi samningum okkar verði sagt upp og tökum baráttuna í eigin hendur.

## 36. þing INSÍ Varar við stríðsbrölti risaveldanna

Þing Iðnemasambands Íslands í október s.l. samþykkti athyglisverða ályktun um þjóðmál. Þar er kafli um utanríkis- og sjálfstæðismál og hann er svohljóðandi:

"1. Herinn og NATO. Berjast þarf áfram fyrir brottför hersins og úrsögn úr NATO, sem höfuðatriði þeirrar baráttu og leggja verður áherslu á að það er aðeins með leið fjöldabaráttunnar, sem þessum markmiðum verður náð. Reynslan ætti að vera búin að kenna herstöðvaandstæðingum að haldlítið er að treysta á þing eða ríkisstjórnir í þessum efnum. Sérstaklega þarf nú að gæta þess að baráttan verði ekki afvegaleidd með því að gera efnahagsleg tengsl við herinn að höfuðmáli í þessari baráttu.

2. Halda þarf áfram að berjast fyrir að efnahagslegt og pólitískt sjálfstæði landsins verði tryggt og virt. Því er nú stefnt í hættu með stórfelldum skuldasöfnunum erlendis, svo og erlendri stóriðju, sem hvoru tveggja þarf að berjast gegn. Frestun tollalækkana við Efnahagsbandalagslöndin er jákvæð, þar sem stefnir að því að styrkja íslenskt atvinnulíf gagnvart erlendum einokunarhringjum.

Alþjóðamál

Alþjóðaástandið nú einkennist hvað mest af því að tvö risaveldi, Bandaríkin og Sovétríkin, keppa um heimsyfirráð. Átök risaveldanna eru augljós og sívaxandi, og af þeim stafar veruleg stríðshætta. Skýrast hafa þessi átök komið fram í Afríku og fyrir botni Miðjarðarhafs. Risaveldin reyna að brjóta niður sem mest þau mega sjálfstæði þjóðríkja og gera sem flest ríki að leppum sínum, efnahagslega og pólitískt háð þeim. Sérstaklega risaveldin, en einnig mörg önnur stór auðvaldsríki, arðræna 3ja heimslöndin gengdarlaust og berjast gegn öllum tilraunum þeirra til að standa á eigin fótum.

36. þing INSÍ lýsir yfir fyllsta stuðningi við baráttu þjóðfrelsishreyfinga gegn heimsvaldastefnunni. Dæmi um þessa baráttu sjáum við t.d. í Palestínu, Eritreu, Namibíu og Zimbabve (Ródesíu).

Þá vill þingið sérstaklega leggja áherslu á fullan stuðning sinn við frelsis- og réttindabaráttu alþýðu Grænlands og Færeyja, gegn nýlendukúgun danska ríkisins á þessum löndum".

## BHM gengur ekki til baráttu

Í 20 tbl. Verkalýðsblaðsins var greint frá fundi launamálaráðs Bandalags háskólamanna í Reykjavík þann 24. október - undir fyrirsögninni "Gengur BHM til baráttu?".

Fundur þessi einkendist af litlum undirbúningi, lítilli kynningu á tilefninu meðal félagsmanna og af fjarveru flestra stuðningsmanna núverandi ríkisstjórnar. Á fundinum var þó samþykkt yfirlýsing um að ríkisvaldið skuli afnema vísitöluþakið og setja samningana í gildi. Aðildarfélög launamálaráðs voru auk þess hvött til að beita sér fyrir aðgerðum svo sem að fella niður vinnu sem næmi jafnvirði hýrudráttarins.

Launamálaráð og stjórn BHM fylgja hins vegar þessum ákvörðunum ekki eftir með fundum og skipulagningu. Fæst aðildarfélögin virðast heldur ætla að hreyfa sig. Með öðrum orðum: Loftið er úr blöðrunni og ekkert gerist.

Með þessu getur ríkisvaldið óáreitt stolið allt frá nokkrum þúsundum króna upp í hundruð þúsunda króna á ári af mörg hundruð launamönnum í nafni "vinstri stefnu". BHM gengur sem sagt ekki til baráttu af alvöru.

Ég tel meginorsakir þess tvær:

Í fyrsta lagi er forysta BHM og launamálaráðs duglaus og fylgjandi samvinnu auðvalds og vinnandi fólks. Hún er aðskilin frá fjöldanum og kann ekki til almennustu verka sbr. undirbúning og eftirmála fundarins umrædda. Stór hluti hennar lætur fylgi við ríkisstjórnarflokka hverju sinni stýra gerðum sínum, en ekki hag félagsmanna.

Í öðru lagi vinna félagar úr ríkisstjórnarflokkunum, sérstaklega Alþýðubandalaginu gegn virkri baráttu nú. Þjóðviljinn og fleiri blöð þegja og lúðrarnir frá í vor þegar Geir og có tóku samningana úr gildi eru þagnaðir.

Burt með vísitöluþakið - samningana í gildi!
Enga framlengingu kjarasamninga!
Fullan samnings og verkfallsrétt!

Fréttaritari í BHM

## Íslenskunemar styðja stundakennara

Ályktun samþykkt einhljóða á aðalfundi Mímis 26. okt.

"Mímir, félag íslenskunema, lýsir yfir eindregnum stuðningi við kjarabaráttu stundakennara í Háskóla Íslands. Félagið hvetur háskólastúdenta til að sýna væntanlegu verkfalli stundakennara stuðning með því að taka virkan þátt í aðgerðum þeirra".

## Akureyri

Frh. af forsíðu

ina voru hins vegar ánægðir með innihald flugrita EIK (m-l)

Verkalýðsblaðið lýsir yfir stuðningi við baráttuna á Akureyri og hvetur til stuðnings við hana.

Fréttaritari.

## Fjárlagafrumvarpið -

# Kreppuráðstafanir

### Aukin skattpíning

Tekjuskattur einstaklinga hækkar um 94% miðað við fjárlög 1978. Ef miðað er við að laun hafi hækkað á árinu að meðaltali um 45% sem eykur krónufjöldann, þá vantar hlutfallslega séð enn tæp 50% upp á tekjuskattshækkunina. Hvar ætlar ríkisstjórnin að taka þessa peninga sem á vantar? Jú, auðvitað hjá launafólki, það segir hún skýrt og skorinort sjálf í fjárlagafrumvarpinu, en þar segir: "Frumvarpið felur í sér auknar tekjur ríkissjóðs í formi beinna skatta sem ekki leiða til sjálfkrafa hækkunnar launa og verðlags". (Undirstrikun VBL.)

Atvinnurekendur og aðrir fjármálabraskarar hafa 1001 leið til að fela sínar raunverulegu tekjur og ráða þannig sjálfir hversu mikið þeim þóknast að borga í skatta, þannig að meginþungi skattahækkunarinnar kemur í hlut launafólks.

### Rýrnun kaupmáttar.

Þessi mikla skattpíning, sem núverandi ríkisstjórn boðar, er áhrifamikið tæki til að minnka kaupmátt launa Ríkisstjórnin hefur sett sér það markmið að ná jöfnuði í viðskiptum við útlönd, og eins og fyrri ríkisstjórnir fara þeir þá leið að rýra kaupmátt launafólks. Þ.e. launafólk á að svíða fyrir þann halla sem kemur fram í viðskiptum við aðrar þjóðir og sem stafar langoftast af kaupum auðvaldsins á stórvirkum atvinnutækjum. Ríkisstjórnin beitir sem sagt þeirri einföldu formúlu að eftir því sem launafólk hefur minna til að kaupa fyrir, því mun minni verður hallinn í utanríkisviðskiptum.

### Verðbótavísitalan í hættu

Stefna fjárlagafrumvarpsins er skýr - draga á úr kaupmætti launa. Koma á í veg fyrir "vítahring víxlhækkana verðlags og launa" með því að ráðast á kaupmátt launafólks. Til þess að stefna ríkisstjórnarinnar nái fram að ganga, er lykilatriðið að þeim takist að skerða verðbótavísitölu launa 1. desember næstkomandi. Fyrri ríkisstjórn beitti þeirri aðferð að taka vísitöluna beint úr sambandi, taktík þessarar ríkisstjórnar er önnur og áhrifameiri. Nú eiga topparnir í ASÍ og BSRB að vinna skítverkin, með því að samþykkja skerðingu vísitölunnar, þannig að þessi ríkisstjórn geti fengið vinnufrið til að koma kreppuráðstöfunum sínum í framkvæmd. Nú ríður á að launafólk standi vörð um vísitöluna og setja verður fram þá kröfu að verðbótarvísitalan verði óbreytt, þar til fyrir liggja niðurstöður úr þeirri neytendakönnun sem á að fara fram á næsta ári og eftir að sú könnun hefur verið gerð verður aðeins hægt að breyta forsendum verðbótaútreikninga í samræmi við breyttar neysluvenjur launafólks í landinu frá því sem var á árunum 1964-1965, en forsendur verðbótaútreikninga nú miðast við neysluvenjur launafólks á þeim árum.

### Niðurskurður á framlögum til lífeyristrygginga.

Framlög til lífeyris- og tekjutryggingar aldraðra hækka aðeins um 27,5% miðað við fjárlög 1978. Slík hækkun vegur ekki upp á móti þeirri verðbólgu sem verið hefur í ár, en áætlað er að verðbólgan nemi um 45%. Einnig er gert ráð fyrir að uppbætur á lífeyri fylgi verðbótum á laun. Í reynd hefur þessi stefna ríkisstjórnarinnar í för með sér að kjör aldraðra verða stórlega skert á árinu 1979. Greinilegt er að engum verður hlíft þegar ríkisstjórnin deilir byrðum kreppunnar yfir á herðar almennings.

### Niðurskurður á sviði menntamála, heilbrigðis- og tryggingarmála.

Ríkisstjórnin ætlar sér að ráðast freklega á launafólk, sem starfar að mennta- og heilbrigðismálum. Niðurskurður launa kennara, sem starfa í grunnskólum landsins á að nema um 150 milljónum króna, með því að skera niður fjölda kennslustunda á viku. Þetta er frekleg árás á kjör og laun kennara. Á ríkisspítölum á að skera niður launagreiðslur um 270 milljónir króna, með því að draga úr yfirvinnu- og álagsgreiðslum. Fyrir utan að vera árás á laun og kjör fólks sem starfar á ríkisspítulum, er hér einnig um að ræða auknar álögur á það starfsfólk sem fyrir er. Yfirvinnu- og álagsgreiðslur á ríkisspítölum stafa fyrst og fremst af því að það vantar fastar stöður þannig að þjónusta við sjúklinga geti haldist í lágmarki. Er það stefna þessarar ríkisstjórnar að láta fimm manns vinna störf sem 10 eiga að sinna?

### Niðurskurður á verklegum framkvæmdum.

Skera á stórlega niður framlög ríkisins til skólabygginga, sjúkrahúsa, heilsugæslustöðva og dagheimila. Miðað við fjárlög 1978 nemur aukningin á framlögum ríkisstjórnarinnar til skólabygginga um 20%. Miðað við að hækkun vísitölu byggingarkostnaðar nemur um 51% á árinu 1978 miðað við árið á undan, er hér um mikinn niðurskurð að ræða.

Framlög til bygginga sjúkrahúsa og heilsugæslustöðva hækka um 10% frá fyrri fjárlögum og er því niðurskurður til sjúkrahúsanna óhemjumikill. Þessi stefna ríkisstjórnarinnar leiðir af sér tvennt í meginatriðum.

Í fyrsta lagi aukast allar álögur á þau sjúkrahús sem fyrir eru og þjónusta til sjúklinga verður stórlega skert fyrir vikið.

Í öðru lagi leiðir stefna ríkisstjórnarinnar til þess að atvinnuleysi skapast í byggingariðnaði og fleiri greinum iðnaðar.

### Niðurskurður á framlögum til húsnæðismála.

Ríkisstjórnin stefnir að því að minnka húsbyggingar í landinu með því að þrengja lánamöguleika fólks og með því að skerða fjárframlög til húsnæðismálastofnunar ríkisins. Þessi stefna þýðir í reynd að mikill samdráttur verður í byggingariðnaði, sem svo aftur leiðir til atvinnuleysis.

### Meginniðurstöður:

Grunntónninn í stefnu fjárlagafrumvarpsins er: Rýrnun kaupmáttar launafólks og samdráttur á öllum sviðum verklegra framkvæmda. Stikkorðin eru: "Draga úr vixlhækkunum verðlags og launa" og "Samdráttur í opinberum framkvæmdum og takmarka útlán og peningamagn í umferð til þess að draga úr verðþenslu". Stefna þessarar ríkisstjórnar miðast fyrst og fremst að því að velta byrðum kreppu auðvaldsins yfir á herðar launafólks í landinu, með því að skerða stórlega kaupmátt launa, draga úr allri félagslegri þjónustu og verklegum framkvæmdum sem varða hag almennings. Lykilatriðið í stefnu ríkisstjórnarinnar er að henni takist að afnema eða skerða verðbótavísitöluna 1.desember næstkomandi og að laun verði fryst fram að 1. des. 1979. Það er því lykilatriðið í baráttu launafólks nú að verja þá verðbótavísitölu sem er í gildi. Krafan verður að vera: Óbreytt verðbótavísitala og fullar verðbætur á laun 1. desember.

| | | | | | | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| S | O | V | E | T | ■ | S | T | G | U | R |
| A | ■ | O | K | ■ | V | ■ | T | R | ■ | U |
| D | O | ■ | K | L | E | T | T | ■ | G | G |
| A | L | L | A | ■ | R | ■ | I | S | A | L |
| T | ■ | A | ■ | S | K | A | ■ | T | ■ | A |
| ■ | S | U | L | T | A | R | L | I | F | ■ |
| T | ■ | S | ■ | Ó | F | A | ■ | L | ■ | S |
| E | F | N | Á | ■ | Ó | ■ | N | A | U | T |
| K | A | ■ | S | E | L | J | A | ■ | R | E |
| K | ■ | Á | N | ■ | K | ■ | T | Á | ■ | I |
| Ó | F | T | A | R | ■ | S | Ó | L | I | N |

Hér að neðan birtist rétt lausn við verðlaunakrossgátunni í 18.tbl. Aðeins örfáar réttar lausnir bárust, og viljum við því eindregið hvetja lesendur til að senda inn lausnir við slíkum þrautum í blaðinu, sé einhver áhugi á að blaðið flytji slíkt efni.

Dregið var um verðlaun, 5000 kr. vöruúttekt úr Októberbókabúðinni, og hlaut þau:

Fjölskyldan Ásgarði 121, Reykjavík.

# Krossgáta nr. 2

Krossátan hér að neðan barst okkur frá áhugasömum lesenda. Hún er dálítið sérstök að því leyti að sums staðar enda orðin (ekki byrja), þar sem viðkomandi tala er. Þar sem svo er háttað er merkt í skýringum (öfugt). Verðlaunin eru áskrift að Rauðliðanum, fræðilegu og menningarlegu tímariti EIK(m-l), í eitt ár. Frestur til að skila inn réttum lausnum er 15.desember n.k. Gangi ykkur vel!

## Skýringar

**Lárétt:**

1.Það sem auðvaldið vill gera við verkföll. 2. Smáréttur. 3.Heimsálfa. 4. Tala. 5. Eyja. 6.Heimsvaldasinnað ríki. 7. Samtenging (öfugt). 8.Tré. 9.Tónn. 10. Flíkur. 11.Skammstöfun. 12.Stórhýsi. 13. Það sem hagfræðingar ætla fólki að éta. 14.Suðari. 15.Greinir 16.Rafskaut. 17.Heimili. 18.Manns. 19.Fæði. 20.Auðhringur. 21.Tæp. 22. Vegið. 23.Pappír. 24.Mastur.

**Lóðrétt.**

1.Fjall. 4.Byltingarsinnuð stétt. 7.Jarðarbúana. 8. Samtenging. 10. Drita. 12.Líkamshluti. 17.Farartæki. 20.Mergð. 22. Tala. 25.Tegund. 26. Spil. 27.Frumefni. 28.Góma. 29.Band. 30. Verkfæri. 31. Kynti undir. 32.Hafa af. 33.Flani. 34.Starf. 35. Kollvarpa. 36.Ílát. 37. Í viðbót. 38.Tala.



# Jósef Stalín:

## Um sjálfs

Réttur til sjálfsákvörðunar þýðir að aðeins þjóðin sjálf hefur rétt til að ráða örlögum sínum, að enginn á rétt á því að skipta sér með valdi af lífi þjóðarinnar, að eyðileggja skóla hennar og aðrar stofnanir, að misþyrma venjum hennar og siðum, að bæla niður tungu hennar eða skerða réttindi hennar.

Þetta þýðir að sjálfsögðu ekki að sósíalistar muni veita sérhverri siðvenju og stofnun einnar þjóðar stuðning. Þegar þeir berjast gegn kúgun þjóðar munu þeir aðeins

## Sóðaskrif Stéttabaráttunnar.

# „Ritnefnd verður að svara" - segir Gunnar Andrésson

– Það hefur einhver skrifað greinina og ritnefnd síðan ákveðið að birta hana án undirskriftar. Ritnefnd verður því að svara fyrir greinina. Ég vil ekkert segja um innihaldið í henni, en tek fram að það sem KFÍ/ML hefur áður sagt (m.a. í svari til EIK(m-l) við bréfi – birt í Stéttabaráttunni, aths. VB) stendur óbreytt.

Þetta hafði Gunnar Andrésson, formaður "Kommúnistaflokks Íslands", að segja er VB bar undir hann athyglisvert innihald greinar einnar í 41. tbl. Stéttabaráttunnar 1978. Greinin heitir "Vörumst kreddur, vísum einsýni á bug" og er þar m.a. vikið að einum þætti í klofningslitrófi "KFÍ/ML" undanfarið. Í greininni segir m.a.:

"Forvígismenn 7-menninganna sem klufu Kommúnistaflokkinn í janúar 1977 voru ekki kreddusinnar. Þeir eru dæmigerðir trotskíistar og gagnbyltingarsinnar. Þeim hefur með aðferð rógs og undirróðurs tekist að draga með sér fjölda félaga sem voru reikulir í afstöðu sinni. Þeir kynda undir hatursbáli gagnvart Kommúnistaflokknum og hefur tekist að blekkja félaga EIK(m-l) og smygla sér í raðir þeirra sem einlægir andstæðingar endurskoðunarstefnunnar.... Þeir bera höfuðábyrgð á sundrungu hreyfingarinnar og sameining mun aldrei takast fyrr en þeir hafa verið fyllilega afhjúpaðir og reknir burt..... Tveir forvígismenn 7-menninganna eru trotskíistar og undirróðursmenn. Þeir hafa aldrei verið marxistar og þekkingarleysi sitt á marxismanum hafa þeir falið með því að styðja fræðilegar röksemdir annara, ekki í þeim tilgangi að bæta stefnu og samheldni hreyfingarinnar, heldur í þeim tilgangi að sundra henni og breyta stefnu hennar í endurskoðunarstefnu. Þessa tvo menn verður að draga til ábyrgðar fyrir verk sín. Það er nauðsynleg forsenda sameiningar marxísku-lenínósku hreyfingarinnar".

### UPPGJÖRIÐ AÐALATRIÐIÐ

Blaðið bar skrif Stéttabaráttunnar undir Ara T. Guðmundsson, formann Einingarsamtakanna. Hann sagði:

–Skrifin bera pólitískum vingulshætti "flokksins" ákaflega skýr merki. Það er réttur mánuður síðan "flokkurinn" svaraði sameiningargrundvelli EIK(m-l), og þar er hvergi minnst á að "sameining muni aldrei takast fyrr en 2 forystumenn 7-menninganna hafi verið afhjúpaðir og reknir burt", eins og það er efnislega orðað í greininni. Ef til vill sýnir þessi grein hversu mikil sameign félaga "KFÍ/ML" svar þeirra til EIK(m-l) er!



Ari T. Guðmundsson, formaður EIK(m-l) t.v. og Gunnar Andrésson, formaður "KFÍ/ML" t.h. Myndin er tekin á kappræðufundi samtakanna í október sl. (Mynd: Vlb.)

Annars vil ég nota tækifærið til að leiðrétta "misskilning" sem ýmsir félagar "KFÍ/ML" virðast haldnir. Í fyrsta lagi hafa hvorki 7-menningarnir, né aðrir sem gengið hafa til liðs við EIK (m-l) úr röðum "flokksins" smyglað sér inn í samtökin. Þeir hafa gert sjálfsgagnrýni á pólitíska fortíð sína og starf sitt með "KFÍ/ML". Samskonar sjálfsgagnrýni og EIK(m-l) hefur ætíð krafist af "flokknum" í heild. Í öðru lagi er ekki um það að ræða að þeir sem sagt hafa skilið við"flokkinn" séu "fórnarlömb áróðurs" frá EIK (m-l) eða öðrum. Þetta fólk hefur háð baráttu gegn endurskoðunarstefnu og rangri stefnu og starfi "KFÍ/ML" og gert upp við fortíðina. Í þriðja lagi vil ég, af gefnu tilefni, taka skýrt fram að svonefndir forvígismenn 7-menninganna, sem á er ráðist, hafa allt frá því þeir gerðu upp við"flokkinn" starfað á grundvelli afstöðu EIK(m-l) til "flokksins". Allt tal um að þeir hafi einhverja aðra afstöðu til flokksins en samtökin, eða þeir séu orsök sundrungar, er út í hött. EIK(m-l) hafa alltaf bent á, að orsök þess hvernig komið er fyrir "KFÍ/ML" er endurskoðunar- og hentistefna hans. Tilraunir til að "draga 2 menn til ábyrgðar" eru aðeins tilraunir til að breiða hulu yfir pólitískan ágreining EIK(m-l) og "KFÍ/ML"

Einingarsamtökin munu hér eftir sem hingað til heyja baráttu gegn "flokknum", en ég vil vara talsmenn "KFÍ/ML" alvarlega við því að reyna x að persónugerva þær andstæður sem eru milli samtakanna tveggja á þann hátt sem reynt er að gera í skrifum Stéttabaráttunnar".

---

## Liðsfundur Baráttuhreyfingar 1. des

# ÁTAKS ER ÞÖRF Í FJÁRMÁLUM



Liðsfundur Baráttuhreyfingar 1. desember var haldinn að Hótel Esju þriðjudaginn 7. nóvember sl. Mæting var góð. Þóra Sigurðardóttir hélt fræðsluerindi um alþjóðaástandið og stríðshættuna. Alda Marínósdóttir fjallaði um starfið og fjármál hreyfingarinnar. Kom fram í máli hennar, að mikill misbrestur er á, að fólk skili nægilega fljótt af sér peningum fyrir söluefni hreyfingarinnar. Þetta er mjög bagalegt, þar sem hreyfingin getur þá ekki staðið í skilum og verður að draga saman seglin t.d. í útgáfu dreifirita, auglýsingastarfsemi o.fl.

Menningarefni á fundinum var mjög gott. Lesin var ágæt smásaga eftir Ara Trausta Guðmundsson. Guðmundur Sæmundsson las nokkra búta úr Íslendingasögum, gömlum bréfum og greinum, sem sýndu baráttu íslenskrar alþýðu. Í lok fundarins var gerð tillaga um að syngja "Nallann" í tilefni dagsins, 7.nóv. sem er afmæli októberbyltingarinnar.

Á fundinum var lagt fram nýtt útgáfuefni hreyfingarinnar. Er þar um að ræða annars vegar plakat, sem hengt verður upp sem víðast um bæinn. Hins vegar er 20 síðna bæklingur, sem inniheldur starfsleiðbeiningar, auk þeirra fræðsluerinda sem flutt voru á tveim fyrstu liðsfundunum. Bæklingurinn er mjög vel unninn og vandaður. Verður hann seldur á kr. 500. Má fá hann hjá félögum hreyfingarinnar og í Októberbúðinni að Óðinsgötu 30, og víðar. Sölupeningum á að skila af sér til gjaldkera hreyfingarinnar, Öldu Marínósdóttur, Bugðulæk 16, s. 84591. Á sama stað er dreifingarmiðstöð hreyfingarinnar, og eru allir sem taka vilja þátt í dreifingu, uppsetningu plakata um bæinn, merkjasölu og sölu bæklinga, beðnir að snúa sér þangað hið fyrsta. Mjög brýnt er að koma sem bestu lagi á fjáröflun hreyfingarinnar – annars er hætta á að allt starf hennar lamist.

Þeir sem vilja skrá sig til þátttöku í starfsnefndum hreyfingarinnar þessar síðustu vikur eru beðnir að snúa sér til Öldu eða formanns hreyfingarinnar, Guðmundar Sæmundssonar, s. 82457. Stuðningsyfirlýsingar og önnur bréf til hreyfingarinnar skal senda á heimilisfangið: c/o G. Sæmundsson, pósthólf 10048, 130 Reykjavík.

---

Í þessu og næsta blaði verða birtir smákaflar um sjálfsákvörðunarrétt þjóða eftir félaga Stalín. Þessir kaflar eru teknir úr riti Stalíns, Marxisminn og vandamál þjóðerni og nýlendna. Birting þessara kafla tengist þeirri baráttu sem nú fer fram með starfi Baráttuhreyfingar 1. desember.

## fyrri hluti

# sákvörðunarréttinn

halda á lofti rétti þjóðarinnar sjálfrar til að ákvarða um örlög sín, en um leið berjast gegn skaðlegum siðvenjum og stofnunum viðkomandi þjóðar í þeim tilgangi að gera vinnandi stéttum þjóðarinnar kleift að leysa sig úr viðjum þeirra.

Rétturinn til sjálfsákvörðunar þýðir að þjóð getur skipað lífi sínu að eigin vild. Hún hefur rétt til að skipuleggja líf sitt á grundvelli sjálfsstjórnar. Hún hefur rétt til að ganga í ríkjasamband við aðrar þjóðir. Hún hefur rétt til fullkomins aðskilnaðar. Þjóðir eru fullvalda, og allar þjóðir hafa jafnan rétt.

Þetta þýðir að sjálfsögðu ekki að sósíalistar muni styðja sérhverja kröfu þjóðar. Þjóð á jafnvel rétt á því að snúa aftur til gamla skipulagsins, en þetta merkir ekki að sósíalistar muni samþykkja slíka ákvörðun með þögninni, sé hún tekin af einhverri stofnun ákveðinnar þjóðar. Skyldur sósíalista, sem verja hagsmuni verkalýðsstéttarinnar, og réttindi þjóðar sem samsett er úr mismunandi stéttum, er tvennt ólíkt.

Í baráttunni fyrir sjálfsákvörðunarrétti þjóða er takmark sósíalista að koma í veg fyrir undirokun þjóða, að gera hana ómögulega, og þar með að nema brott orsökina til baráttu þjóða á milli, að slæva þá baráttu og minnka hana eins og unnt er.

Þetta er það sem fyrst og fremst skilur stefnu stéttvísra öreiga frá stefnu borgaranna, sem er sú að auka og blása að glæðum baráttu milli þjóða og að stækka og skerpa þjóðernissinnaða hreyfingu.

(bls.36-37, skv. bandarískri útgáfu frá 1975)

■

---

## Baráttuhreyfing 1. des.:

# LIÐSFUNDUR 23. NÓVEMBER !

Þriðji liðsfundur Baráttuhreyfingarinnar verður 23. nóv. nk. að Hótel Esju, 2. hæð, kl. 20.30.

Á dagskrá m.a.

1. Fræðsluerindi um andheimsvaldabaráttu á Íslandi.
2. Rætt um starfið og undirbúning 1.des.-aðgerða.
3. Menningar- og skemmtiefni.

MÆTUM ÖLL!
GERUM 1. DES.
AÐ BARÁTTUDEGI



Lönd vilja sjálfstæði – þjóðir vilja frelsi – alþýðan vill byltingu

# Ályktun EIK(m-l) og KAP

Fulltrúar EIK(m-l) og Kommúnistaflokks verkamanna í Danmörku (KAP) hittust fyrir skömmu í Kaupmannahöfn. Samtökin ræddu stjórnmálaástandið og samvinnu sína . KAP og EIK(m-l) ítrekuðu einingu um öll mikilvæg mál sín í milli.

## RISAVELDIN

Risaveldin tvö, Bandaríkin og Sovétríkin eru meginandstæðingar alþýðu heimsins, þjóðanna og ríkjanna. Sovétríkin eru risaveldi í sókn, en Bandaríkin eru þvinguð í varnarstöðu þegar á heildina er litið. Í tilraunum sínum til að yfirvinna veldi og áhrif Bandaríkjanna nota Sovétríkin vopnavald í æ ríkara mæli. Aukin samkeppni risaveldanna eykur hættuna á nýrri heimsstyrjöld. Með sóknarstefnu sinni eru Sovétríkin hættulegra risaveldið og líklegastur upphafsaðili slíkrar styrjaldar Því er það mikilvægara en nokkru sinni fyrr að mynda breiða samfylkingu gegn báðum risaveldunum. 3.heimurinn er meginaflið í baráttunni gegn þeim.

Samkeppni risaveldanna ógnar beinlínis Norðurlöndunum. Ísland og Danmörk eru í Atlantshafsbandalaginu (NATO). Bandaríska heimsvaldastefnan okar þess vegna löndin, en sovéska herliðið er ágengt og nálægt vegna sífelldra ögranna við sjálfræði Norðurlanda.

Til þess að verja sjálfsákvörðunarrétt norrænu þjóðanna verða þær að vísa á bug erlendri hersetu í löndum sínum. Bandaríska herstöðin í Keflavík verður að hverfa þegar í stað. Baráttan gegn NATO verður samtímis að tengjast andstöðu við allar tilraunir Varsjárbandalagsins til að ná áhrifum á Norðurlöndum.

## EFNAHAGSBANDALAGIÐ

En það er ekki eingöngu heimsvaldastefna Sovétríkjanna og Bandaríkjanna sem reynir að grafa undan sjálfsákvörðunarrétti norrænu þjóðanna. Einokunarauðvald Evrópu hefur búið til valdatæki sitt með Efnahagsbandalaginu. EBE er notað til árásar á alþýðuna og reynir að afnema sjálfræði þjóðanna með því að styrkja svonefnd "pólitísk samtengsl" þeirra. Vegna þessa berjast EIK(m-l) og KAP gegn EBE.

Samtímis lítum við jákvætt á það þegar EBE lendir í andstöðu við risaveldin og veikir með því stöðu þeirra og þau sjálf. Við viljum að Norðurlöndin byggi sjálfstæðar og jafnréttháar þjóðir utan hernaðarbandalaga.

## ÁSTANDIÐ OG KREPPAN

Hin síðari ár hefur almenn kreppa auðvaldsins dýpkað. Í kjölfar kreppunnar kemur atvinnuleysi, niðurskurður framkvæmda og árásir á lýðréttindin. Kreppan hrjáir enn Danmörku. Einokunarauðherrar sósíaldemókrata reyna að gera þingræðið stöðugra með nýjum ríkisstjórnum. Með þessu á að velta byrðum kreppunnar enn frekar yfir á verkalýðsstéttina.

Kjaramálastefnan er fólgin í lækkun raunlauna og minni lýðréttindum. Henni á að framfylgja með hjálp samvinnu milli einkaauðmagns, ríkisvaldsins og leiðtoga verkalýðshreyfingarinnar. Í allri baráttunni gegn kreppuráðstöfunum er mikilvægt að vekja til hreyfings alla verkalýðsstéttina og framsækin öfl í varnabaráttu.

Á Íslandi harðnar stéttabaráttan í kreppunni. Með áhlaupi á lífskjör og lýðréttindi verkalýðs og annarrar vinnandi alþýðu hefur auðvaldinu tekist að miklu leyti að láta fjöldann bera kreppubyrðarnar. Það er staða endurbótasinna og endurskoðunarsinna í verkalýðshreyfingunni sem gerir auðvaldinu þetta kleift, sérstaklega eftir að þeir hafa gengið til stjórnarsamvinnu með hluta einokunarauðvaldsins. Að auki herða risaveldin og erlendir auðhringar ásókn sína á Íslandi með nýjum fjárfestingum, skilyrtum lánum, verslun og hernaðarbrölti.

Í þessari stöðu er nauðsynlegt að byggja upp samfylkingu verkalýðs og framsækinna afla gegn auðvaldinu, ríkisvaldinu og allri heimsvaldastefnu.

## AUKIN SAMVINNA

EIK(m-l) og KAP standa á sama stjórnmálagrunni. Við beitum marx-lenínismanum/ kenningum Maó Tsetungs við sérstæður landa okkar. KAP og EIK(m-l) verja þessa undirstöðu gegn árásum, m.a. árásum leiðtoga Albaníu. Þessar árásir veita hatursáróðri sovésku borgarastéttarinnar stuðning – árásir sem beinist gegn hinu sósíalíska Kína og tilraunum þess og kommúnista til þess að mynda samfylkingu gegn risaveldunum á alþjóðavettvangi.

EIK(m-l) og KAP taka afstöðu gegn árásum víetnama á Alþýðulýðveldið Kampútseu, sem studdar eru af Sovétríkjunum. Samtökin munu berjast til varnar sjálfsákvörðurnarréttar Kampútseu.

EIK(m-l) og KAP ítreka stuðning sinn við baráttu verkalýðs og þjóða Færeyja og Kaladt Nunat (Grænlands) fyrir sjálfræði og sjálfstæði sínu.

EIK(m-l) og KAP hafa átt með sér nána samvinnu í mörg ár. Undirstaða hennar er sameiginleg ályktun marxlenínísku flokkanna og samtakanna á Norðurlöndum frá því í janúar 1975. Fundurinn nú jók enn samvinnu samtakanna. Við munum enn frekar styrkja sameiginlega baráttu gegn risaveldunum, heimsvaldastefnunni, og heimsstyrjöldinni, fyrir friði – og gegn einokunarauðvaldinu fyrir sósíalisma og kommúnisma.

F.h. miðstjórnar EIK(m-l)
Ari T.Guðmundsson
formaður.

F.h. miðstjórnar KAP
Benito Scocozza
formaður.

---

# DEILUR Í HEIMSHREYFINGU MARX-LENÍNÍSTA

# Rangar ásakanir

## 9. ÞRÍR HEIMAR

Í árásum sínum á kenninguna um þrjá heima gera albanskir leiðtogar lítið úr stríðshættunni; megin atlögunni er beint gegn Kínverjum sem drottnunarsinnum og bandarísku heimsvaldastefnunni en ekki minnst á hættuna frá Sovétríkjunum. Orðrétt segir:

"Í raun hefur kenningin um "þrjá heima" leitt forystumenn Kína til samstarfs við jafnvel "Satan sjálfan", til einingar við bandaríska heimsvaldasinna og evrópska einokunarsinna, fasista og kynþáttahatara, kónga og lénsherra, ofstækisfyllstu hernaðarsinna og stríðsæsingamenn. Pinochet og Franco, fyrrverandi nasista generálar þýska herveldisins og japanska keisarahersins, forhertir glæpamenn á borð við Mobútu og blóðþyrstir kóngar, urðu bandamenn þeirra."

Fjöllin hafa tekið léttasótt! Tvisvar í sömu málsgreininni eru Kínverjar sakaðir um stuðning við kónga! Og hvað er orðið af hinum"luktu dyrum" í utanríkisstefnu Kína? Þessar ófyrirleitnu ásakanir eru annars vart svara verðar enda hitta Albanir sjálfa sig fyrir.. Á tímum herforingjastjórnarinnar í Grikklandi var komið á eðlilegu ástandi í samskiptum Albaníu og Grikklands. Og samskipti Albaníu og Júgóslávíu hafa farið batnandi undanfarin ár þrátt fyrir andstöðu Albana við Tító-stjórnina. Hvað er eðlilegra en þetta? Eða má búast við að Albanir fari að abbast upp á nágranna sína vegna mismunandi stjórnkerfis landanna?

Eftir bréfinu að dæma telja albanskir ráðamenn að byltingarástand ríki nú í Evrópu. Lítum því á hvernig Lenín skilgreinir byltingarástand: 1) Kreppa innan yfirstéttarinnar svo hún er ófær um að drottna á hefðbundinn hátt, 2) undirstéttin neitar að láta drottna yfir sér og 3) víðtæk fjöldahreyfing sem nær inn í raðir þeirra sem venjulega eru hlutlausir. Þetta ástand ríkir ekki í Evrópu og albönsku leiðtogunum er fullkunnugt um þessa greiningu Leníns. En þeir kjósa að bera fram eigin óskhyggju í stað fræðilegra röksemda.

## 10. SAMSKIPTI ALBANÍU OG KÍNA

Um einstök atvik í samskiptum landanna eða "framkomu" kínverja við ákveðin tækifæri erum við ekki færir að dæma, bendum þó á að ástandið í Kína var erfitt á tímabilinu frá ´74 – ´76. Þá fór fram uppgjörið við "fjórmenningana", helstu leiðtogar Kína, Mao Tsetung og Sjú Enlæ, voru helsjúkir og létust báðir á árinu 1976. Þeir voru því ekki færir um að eiga viðræður við albanskar sendinefndir. Það er í hæsta máta ósmekklegt að velja þetta tímabil til árása á þessa leiðtoga Kínverja. Í bréfinu er því vísað á bug að Albanir hafi byrjað opinberar umræður um ágreiningsmálin. Í ræðu Hoxha á 7. þinginu (nóv. ´76) séu engar árásir á Kína. Þeir segjast hafa skrifað KFK 24. des. ´76 og farið fram á að Kínverjar sýndu hvar þessar árásir kæmu fram. Svar hafi ekki borist.

Það er rétt að Enver Hoxha minntist hvergi berum orðum á Kínverja í ræðu sinni á 7. þinginu, þar sem hann ræðst gegn kenningunni um þrjá heima. Ekki er heldur minnst á Kínverja í leiðara málgagns FVA 7. júlí ´77. En það má skilja fyrr en skellur í tönnum. Bréfið nú tekur af öll tvímæli um við hverja var átt og að það voru forystumenn FVA sem hófu opinskáar deilur.

Ásakanir um að KFK blandi sér inn í innri mál annarra flokka eru rangar. Á hinn bóginn hafa Albanir beitt fyrir sinn and-Kína vagn, flokkum á borð við KPD/ML í Þýskalandi og stutt fjölflokka samkundur þar sem árásir á Kína og kenninguna um þrjá heima voru aðalatriðið. Mörgu af því sem frá þessum fundum hefur komið er gert hátt undir höfði í Albaníu og gagnbyltingarræðum forkólfa þessarra flokka verið dreift þaðan um allan heim í risaupplögum.

## 11. STÉTTABARÁTTAN Í KÍNA

Albönsku leiðtogarnir segjast hafa sínar meiningar um einstaklinga og hópa í kínversku forystuliði, en þó ekki taka opinbera afstöðu til þeirra. Enver Hoxha lét sig þó hafa það að fordæma Líu Sjaósí og Lín Píaó opinberlega 1974 eins og sýnt var hér framar! Þeir segjast ekki styðja "fjórmenningana" en neita að styðja "ólöglegar og and-marx-lenínskar" aðferðir núverandi forystu Kína til að ná völdum. En ef núverandi stjórnvöld í Kína eru ólögleg hver eru þá hin löglegu? "Fjórmenningarnir"? Svarið skiptir e.t.v. ekki máli ef forystumenn FVA telja "alræði borgaranna" hafa komist á í Kína 1971!

Bréfið sýnir að forysta FVA hefur breytt um afstöðu í ýmsum málum án þess að þar finnist minnsta tilraun til sjálfsgagnrýni. Aðeins sjálfshól. Auk þess dusta þeir rykið af gömlum villum. FVA skrúfar nú niður í gagnrýninni á Sovétríkin um leið og þeir, algerlega tilhæfulaust, saka aðra í raun, m.a. EIK(m-l), um "stuðning við bandarísku heimsvaldastefnuna" og "afturhald 2. og 3. heimsins","samvinnu við eigin borgarastétt" o.fl. Í bréfinu vitna þeir mjög í efni sem ekki hefur verið opinberað s.s. bréf, fundargerðir o.fl. en reyna aldrei að styðja mál sitt orðum frumkvöðla marx-lenínismans. Þeir gagnrýna Kínverja stöðugt fyrir að svara ekki bréfum eins og til séu um það einhverja algildar reglur. Slíkt hlýtur að metast í hverju tilfelli, enda hefur forysta FVA ekki svarað þeim sem hafa gagnrýnt hana upp á síðkastið.

EIK(m-l) hafa ekki staðið í miklum bréfaskiptum við FVA, en sent allt sem þau hafa gefið út á ensku og ekkert svar fengið. Í apríl 1976 var sendinefnd frá EIK(m-l) boðið til Albaníu til viðræðna og skoðanaskipta við FVA. Sendinefndin gerði m.a. grein fyrir afstöðu samtakanna til alþjóðamála og var ekki sýnilegt að það færi fyrir brjóstið á fulltrúum FVA þó minnst væri á þrjá heima. Málgagn FVA Rödd alþýðunnar bauð síðan fulltrúa EIK(m-l) á 7. þing flokksins. Þá var komið annað hljóð í strokkinn.

Ekki er rúm til að birta bréfið í heild í VB, en það verður þýtt og gefið út svo félagar og stuðningsmenn EIK (m-l) geti kynnt sér og rætt efni þess. Að þeim umræðum loknum munu samtökin taka endanlega afstöðu. Þó er ljóst nú þegar að EIK(m-l) og KFK eru sammála í grundvallaratriðum. Einnig að forystumenn FVA gera sig ekki einungis seka um nokkrar villur heldur hafna þeir mörgum grundvallaratriðum marx-lenínismans og endurskoða önnur. Því er mikilvægt að fylgjast náið með þróun mála innanlands í Albaníu.

---

Í 17.,19. og 2o.tbl. birtust kaflar úr langri greinargerð utanríkisfulltrúa miðstjórnar EIK(m-l) um deilur Kínverska kommúnistaflokksins og Albanska flokksins. Þetta er niðurlag þessa greinaflokks. Greinaflokkurinn fjallar einkum um kenningu Maós um heimana þrjá og setur fram afstöðu EIK(m-l) til þessara deilna. Við hvetjum lesendur til að lesa nú allan greinaflokkinn í samhengi og mynda sér skoðun á málinu.

Lesendabréf

# Er Sambandið auðhringur?

Blaðinu hefur borist bréf frá lesanda, sem spyr um ástæður þess að blaðinu er svo tíðrætt um Samband ísl. samvinnufélaga sem auðhring, og í framhaldi af því hver sé almenn skilgreining á auðhring.

Svar: Þessum spurningum er vandsvarað í stuttu máli, svo fullnægjandi sé, en stiklað verður á höfuðatriðum.

Eitt af aðaleinkennum þróunar auðvaldsheimsins er sú, að fáar en geysistórar fyrirtækjasamsteypur, hafa undirtökin í framleiðslu, viðskiptum, þjónustu o.fl. Starfsemi þessara samsteypa, eða auðhringa, á sér engin landamæri. Auðhringarnir fjárfesta alls staðar þar sem arðs er von og njóta til þess fyrirgreiðslu vinveitts ríkisvalds auðvaldslandanna. Starfsemi auðhringja er samgróin bankavaldinu og á skeiði einokunarauðvaldsins verður útflutningur fjármagns einkennandi. Það er ekki nægilega gróðavænlegt að fjárfesta eingöngu í "heimalandinu", heldur er fjárfest í verksmiðjum o.fl. í þróunarlöndum og iðnríkjum, eða fjármagn er flutt landa á milli í formi lána og gróðinn skilar sér til baka sem vextir.

Sambandið (SÍS) er geysilega öflug fyrirtækjasamsteypa. Forstjóri þess hefur lýst því stoltur í blaðaviðtali, að fyrirtæki hans sé líklega hið stærsta í heimi, miðað við umfang þess á Íslandi! En lítum aðeins á starfsemi Sambandsins:

Sambandið, ásamt Sölumiðstöð hraðfrystihúsanna, hafa nánast lögverndaða einokun á framleiðslu og útflutningi sjávarafurða. Sambandið ræður framleiðslu kaupfélagsfrystihúsanna og hefur afkomu þeirra í hendi sér. Dæmi eru um að tvö frystihús á Norðurlandi reyndu að selja fisk framhjá sölukeðju Sambandsins og SH á mun hærra verði en þau hefðu annars fengið. Einokunarfyrirtækin refsuðu þessum frystihúsum með því að stöðva umbúðasölu til þeirra, og Sambandið lét skip sín ekki taka fisk frá þeim í langan tíma, þannig að frystigeymslur yfirfylltust og framleiðslan stöðvaðist. Sambandið og SH hafa fjárfest milljarða í verksmiðjum í Bandaríkjunum, þar sem hráefni frá Íslandi er unnið fyrir Bandaríkjamarkað. Með þessu skapa fyrirtækin sér stóraukinn gróða og þetta er mikilvægt einkenni auðhringa. Í landbúnaði er Sambandið einvaldur varðandi framleiðslu og sölu búvara, auk þess sem það flytur inn stóran hluta af tækjum til búrekstrurs. Í iðnaði eru Sambandsverksmiðjurnar þær allra stærstu og umfangsmestu í landinu og mörg byggðasamfélög eru þeim iðnaði háð. Sambandið á og rekur Samvinnubankann (Erlendur Einarsson, forstjóri, er formaður bankaráðs), Samvinnutryggingar, Líftryggingafélagið Andvöku, Olíufélagið ESSO, Samvinnuferðir og auk þess flota kaupskipa.

Hlutur Sambandsins og Sölumiðstöðvarinnar í heildarframleiðslunni á Íslandi er um 80%, og um 40% allrar verðmætasköpunar í iðnaði.

Í stjórnum Sambandsfyrirtækja situr lítill hópur manna og ráðskast með það gífurlega fjármagn sem fyrirtækið veltir, eins og það sé þeirra. Þetta köllum við Fjármálafáveldi, og þessi hópur einokunarauðherra hefur lykiltök í ríkisvaldinu og pólitískan bakhjarl sem er Framsóknarflokkurinn.

Sambandsauðherrarnir reyna ætíð að halda því á lofti, að þetta sé "fyrirtæki fólksins", þar sem "almennir félagsmenn kaupfélaganna ráði í raun fyrirtækinu". Þetta er hreinn þvættingur, sem dugir ekki til lengdar til að fela arðrán Sambandsins á íslenskri alþýðu. Meira að segja smá- og meðalbændur eru smám saman að koma auga á það, að þeir eru arðránsklær Sambandsins sem valda þeim erfiðleikum, en ekki kaupkröfur verkafólks í bæjunum, eins og auðvaldið reynir að innprenta þeim. Bændafundir síðustu misseri og ályktanir þeirra lofa góðu um vaxandi baráttu gegn einokunarauðvaldinu. Verkafólk, sjómenn og bændur eiga samleið í baráttu gegn ægivaldi íslensks einokunarauðvalds með Sambandið í broddi fylkingar.

# 1. des. á Laugarvatni

Verkalýðsblaðinu bárust þær fréttir, um það bil sem verið var að ganga frá vinnslu blaðsins, að stofnuð hefði verið á Laugarvatni deild í Baráttuhreyfingu 1.desember. Stofnfundur var haldinn 8.nóv.í menntaskólanum, og mættu þar 30 manns, sem mun vera svipað eða jafnvel ívið meira en á stofnfundi hreyfingarinnar í Reykjavík. Áætlað er að halda til viðbótar tvo liðsfundi með fræðsluerindum og öðru efni. Þann 29.nóv. verður síðan haldinn baráttufundur með margvíslegu efni, heimabökuðu og aðsendu.

Starfsemi deildarinnar fer enn fram að mestu leyti innan menntaskólans, en möguleikar á að færa starfið út til annarra íbúa og nemenda á Laugarvatni verða kannaðir. Þeir sem stóðu fyrir stofnfundi hreyfingarinnar á Laugarvatni hafa dreift um staðinn dreifiritum og merkjasala er komin í gang.

Verkalýðsblaðið fagnar þessu ágæta frumkvæði Laugvetninga. Vonandi verður þetta góða framlag þeirra öðrum til fyrirmyndar. Stofnum deildir í Baráttuhreyfingu 1.des. sem víðast!

# Örfá orð um fánanotkun

Fánanotkun samfylkinga sem telja sig baráttusinnaðar hafa valdið nokkrum umræðum. M.a. barst blaðinu gagnrýni frá einum liðsmanna Samfylkingar 1.maí, sem kvaðst ekki fyllilega sammála notkun íslenska fánans í aðgerðum samfylkingarinnar á alþjóðlegum degi verkalýðsins. Þá hafa þær raddir heyrst, að notkun rauðs fána á dögum eins og 21.ágúst og 1.des. sé ekki við hæfi. Blaðið vill hvetja lesendur til að láta í sér heyra um þetta mál. Fánanotkun er mikilvægur hluti aðgerða, og því er brýnt að hún sé jafn mikil sameign sem allra flestra liðsmanna eins og þær kröfur, sem bornar eru fram.

Um leið og við hvetjum til þessara umræðna viljum við benda á hvað fánarnir eru. Íslenski fáninn er ekki fáni ríkjandi stéttar í stéttaþjóðfélagi, heldur fáni allrar þjóðarinnar. Við eigum ekki von á því að þurfa að skipta um fána Íslands eftir byltingu, nema hann hafi verið dreginn í svaðið á einhvern þann hátt, sem við getum ekki séð fyrir. Rauði fáninn er ekki fáni kommúnista, heldur fáni verkalýðsstéttarinnar í heimi öllum, tákn kúgaðra sem berjast gegn kúgurum.

Félagi í ritnefnd.

# Grænland

Frh. af baksíðu

stað Grænlands og grænlendinga. Er eitthvað sérstaklega sem þú vilt vekja athygli á í því sambandi?

Við munum öll eftir Inúk-hópnum, sem farið hefur víða og unnið mjög gott starf við kynningu á Grænlandi og grænlendingum. Mér fyndist hápunktur þeirra starfs ef hópurinn gæti farið til Grænlands og sýnt Inúk þar. Slíkt yrði grænlendingum mikil hvatning, og vafalaust væri gaman að vita hvernig þeir taka þessu verki. Það myndi slíkt tvímælalaust verða til að efla samskipti Íslands og Grænlands.

Ég vil líka sérstaklega minnast á framlag Einars Braga rithöfundar til Grænlandsstarfsins. Innan skamms er væntanleg á markaðinn bók með þýðingum hans á verkum grænlenskra ljóðskálda. Þessi bók er sérstök að því leyti, að við þýðingar sínar hefur Einar Bragi stuðst við grænlenska frumtexta, auk danskra þýðinga, svo honum hefur tekist sérstaklega vel að ná boðskap og merkingu ljóðanna. Bók þessi hefur fengið nafnið "Sumar í fjörðum", og inniheldur hún bæði gömul og ný ljóð. T.a.m. er þar að finna mörg ljóð ungra skálda, sem nota ljóðið til baráttu gegn danskri nýlendustefnu og kúgun, án þess að fegra hlutina eða tala undir rós. Þessi bók er mikilvægt framlag til kynningar grænlenskrar menningar og baráttu grænlensku þjóðarinnar.

Ég vil hvetja sem flesta til að verða sér úti um eintak af bókinni. Bókin er talandi tákn um þá vakningu til baráttu sem á sér stað í Grænlandi í dag.

— Svo við snúum okkur að öðru. Það hefur verið mikil umræða undanfarið um stöðu Grænlands í dag, og um heimastjórn til handa



Börn á Grænlandi: Danir ætla þeim það hlutskipti að alast upp undir nýlendukúgun. (Mynd: KLASSEKAMPEN)

grænlendingum. Hvert er þitt álit á þessum málum?

Ég get svarað þessu svona: Heimastjórn, án yfirráða yfir auðlindum Grænlands, heimastjórn sem felur í sér að Grænland verði áfram skoðað sem óaðskiljanlegur hluti danska stórríkisins, og heimastjórn sem í raun viðurkennir það sjónarmið að grænlendingar séu ekki sjálfstæð þjóð, heldur aðeins þjóðernisminnihluti í danska stórríkinu, á ekki uppá pallborðið hjá mér. Danska nýlendustefnan hefur um áratuga skeið kúgað og undirokað grænlendinga, og gert sitt besta til að drepa niður þjóðleg einkenni og vitund grænlendinga. Afleiðingin eru geigvænleg félagsleg vandamál, fátækt og menntunarskortur. Heimastjórn í dag er því ekki annað en ný leið til að dylja alger undirtök og yfirráð dana á Grænlandi. Sú vakning þjóðlegrar vitundar sem á sér stað á Grænlandi í dag, beinist óhjákvæmilega gegn áformunum um heimastjórn. Sú sjálfstæðishreyfing sem er að kvikna í Grænlandi hefur það að markmiði að rífa grænlendinga upp úr niðurlægingu nýlendustefnunnar, og stefnir fram á við í það takmark að grænlendingar verði sjálfstæð þjóð í sjálfstæðu landi.

— Er það nokkuð sem þú vilt koma á framfæri við lesendur Verkalýðsblaðsins að lokum?

Ég vona að framsækið fólk á Íslandi líti sér nær, og komi í enn frekari mæli til liðs við okkur. Grænland liggur 300 kílómetrum vestan við Ísland, sem þýðir að við þurfum ekki að fara langt til að finna land sem enn er undir nýlenduoki. Við þurfum ekki að fara langt aftur í tímann til að finna Ísland í sömu stöðu og Grænland er í dag. Í sögubókum heita þeir tímar niðurlægingartímar. Við getum lagt okkar lóð á vogarskálarnar til baráttu gegn þeirri niðurlægingu sem dönsk nýlendustefna reynir að fjötra grænlensku þjóðina í.



# Umræðufundir um Verkalýðsblaðið

EIK(m-l) í HÍ vilja minna lesendur blaðsins, vini og velunnara, á að enn eru eftir 2 fundir í umræðufundarröðinni um VERKALÝÐSBLAÐIÐ. Fundirnir eru á miðvikudögum, rúmri viku eftir að blaðið kemur út. Þessir 2 fundir sem eftir eru, eru 22. nóvember og 6.desember. Á fyrri fundinum verður aðallega fjallað um 21.tbl., en á þeim síðari einkum um 22.tbl. Ræða á kosti og galla blaðanna og mikilvægar greinar, t.d.leiðarana. Hafið samband við Ólaf Ingólfsson (Sími 28482) eða sölumenn VERKALÝÐSBLAÐSINS í HÍ og tilkynnið þátttöku í umræðufundunum.

EIK(m-l) í HÍ.

Frh. af baksíðu

# Viðtöl...

Í fyrsta lagi hvað varðar umfjöllun á efni. Td. hálfleiða skrif um Kína og allt það sem þið kallið marxlenínisma, en kæruleysisleg skrif um pólitíska andstæðinga, eins og t.d. Alþýðubandalagið og KFÍm/l. Með þessu móti verður öll umfjöllun á efni formúlukennd.

Í öðru lagi er ekki nóg af menningarefni í blaðinu. T.d. skrif um bókmenntir, leiklist, kvikmyndir o.s.fr. Maðurinn lifir ekki á brauði einu saman, sagði Pétur. Einnig fannst honum vanta fræðilegar umræður í blaðið og umfjöllun um deilur um fræðikenningar. Í þessu sambandi sagðist Pétur gera sér grein fyrir því að blað sem kæmi út hálfsmánaðarlega væri mjög þröngur stakkur sniðinn hvað varðar pláss fyrir efni.

Pétur sagðist dást að þeirri eljusemi sem lægi að baki þeirri vinnu að gefa slíkt blað út og sagði að blaðið væri skipulega unnið og þrifalega sett upp. Hann sagðist vera hlynntur þeirri pólitík sem blaðið hefði varðandi vinnudeilur og vinnustaðaátök, því slíkt fengi yfirleitt mjög lítið pláss í öðrum fjölmiðlum eða öllu heldur eins konar glappa og happa meðferð en Verkalýðsblaðið fylgdi slíku mjög vel eftir.

Pétur sagðist eindregið hvetja aðra til að lesa blaðið og fylgjast með skrifum þess og sjálfur væri hann mjög forvitinn að vita hvernig blaðinu tækist til og hvernig það þróaðist áfram.




# VERKALÝÐS BLAÐIÐ

Málgagn Einingarsamtaka kommúnista (marx-leninista)

Gerist áskrifendur
Áskrift greiðist á
gíró 12200-9

ÁBM: ALBERT EINARSSON
1 árs áskrift: kr. 3000
1/2 árs áskrift: kr. 1750
Til útlanda: kr. 5500
Stuðningsáskrift: kr. 5000
ÓÐINSGÖTU 30 Pósthólf 5186,
Reykjavík, sími: 29212




## Guðmundur Þorsteinsson, formaður INUIT:

# „INÚK-hópurinn ætti að fara til Grænlands"

Eins og flesta lesendur Verkalýðsblaðsins rekur vafalaust minni til, var stofnað í Reykjavík fyrir réttu ári síðan Grænlandsvinafélagið INUIT. Verkalýðsblaðið brá sér á fund formanns félagsins, Guðmundar Þorsteinssonar, til að spjalla við hann um félagið og starf grænlandsvina á Íslandi.

– Hvert er starfssvið INUIT, og hvað hefur það verið að fást við undanfarið?

Starfssvið félagsins felst í að efla tengsl grænlendinga og íslendinga á sem flestum sviðum, og kynna íslendingum menningu grænlensku þjóðarinnar og grænlenskt þjóðlíf. Í samræmi við þetta hefur félagið staðið fyrir kvöldvökum til kynningar á grænlenskri menningu. Þar hafa verið sýndar kvikmyndir, haldin ávörp, lesnar ljóðaþýðingar og kynntar bókmenntir grænlendinga. En félagið er ungt og á við ákveðin vandamál að stríða, svo sem fjárskort. Því er heldur ekki að leyna að félagsmenn hafa ekki verið nægilega virkir, svo að mestur hluti starfsins hefur lent á herðum fárra einstaklinga. En við höfum fullan hug á að breyta þessu, og margar góðar hugmyndir hafa komið fram um hvernig við getum virkjað fleiri til starfs, og aukið getu félagsins til að sinna þeim verkefnum sem eru aðkallandi. En virkir félagar hafa farið víða til kynningar á málstað grænlendinga og menningu þeirra. Má t.a.m. nefna að haldin hafa verið ávörp á fundum ýmissa félagasamtaka, haldnar kynningar í menntaskólum, flutt menningarefni frá Grænlandi í útvarp o.fl.

– Hvað er á döfinni hjá INUIT, og hvaða hugmyndir hefur þú Guðmundur um starfsemi félagsins næsta starfsárið?

Númer eitt hjá mér er að við fáum betri tengsl við Grænland og grænlendinga. Það er mín skoðun að félagið eigi að senda fulltrúa til Nuuk (Godthåb) í Grænlandi, þar sem flest grænlensk félagasamtök og stjórnmálasamtök hafa aðsetur, og þar eigi að vinna að því að ná tengslum við sem flesta fulltrúa grænlendinga með það fyrir augum að auka samskipti íslendinga og grænlendinga, og kynna starf og markmið félagsins. Þetta gæti orðið mikilvægur liður í að auka virkni félagsins hér á Íslandi, því að fá hingað grænlenska gesti er ein besta aðferðin til að kynna Grænland og málstað grænlensku þjóðarinnar. En annars vil ég lítið fullyrða núna um hvað félagið muni gera á næstunni. Fyrir dyrum stendur aðalfundur félagsins og þar verða vafalaust ræddar ýmsar hugmyndir. Ég vil nota tækifærið og hvetja sem flesta til að mæta á aðalfundinn og koma með hugmyndir og uppástungur. En almennt vil ég segja, að það er mjög mikilvægt að auka virkni félagsins og því hvet ég alla til að koma til liðs við okkur.

– Nú hafa ýmsir einstaklingar og hópar verið virkir við að kynna mál-

Frh. bls. 7

# Áskrifta og lausasöluherferð







### LAUSASÖLUHERFERÐ

Lausasala 19. tbl. hefur verið minni en 18. tbl. og bendir til þess að lausalan hefur enn ekki náð jafnri og öruggri sölu. Lausasölumarkmiðinu verður aðeins náð fyrir hvert tölublað með því að allir stuðningsmenn blaðsins fari reglulega í söluferðir. Markmiðið grundvallast á því að allir leggi sinn skerf af mörkum. Félagar og stuðningsmenn, ræðið ykkar á milli þau vandamál sem upp koma varðandi lausasöluna og vinnið markvisst að því að leysa úr vandamálunum. Sölumenn utan Reykjavíkursvæðisins eru hvattir til að skila sölupeningum eins fljótt og hægt er. HERÐUM LAUSASÖLUNA!

### ÁSKRIFTAHERFERÐ

Áskriftaherferðin þokast áfram en við eigum langt í land enn þá. Aukningin frá síðasta blaði nemur aðeins 8% og er alls 32% af markmiðinu náð. Nú verðum við að moka kolum á eldinn og fá dampinn upp félagar. Fyrir næsta blað þarf helst að vera komið inn 50% af markmiðinu annars kemur allur þungi herferðarinnar á einn mánuð, desember. Félagar og stuðningsmenn blaðsins á Vestur-, Norður- og Austurlandi eru hvattir til að gera stórátak í öflun nýrra áskrifenda. Áskriftarblokkirnar eru komnar og fást hjá dreifingu blaðsins í Reykjavík á mánudögum milli 18 – 19, Baldursgötu 7A. Stuðningsmenn úti á landi og erlendis fá blokkirnar sendar.

## 1. okt '78 - 1. jan '79

# Viðtöl við lesendur

Tíðindamenn VERKALÝÐSBLAÐSINS leituðu til nokkurra kaupenda blaðsins með fjórar spurningar um það. Voru kaupendurnir spurðir hvort þeir væru ánægðir með blaðið, hverjir væru helstu gallar þess og kostir og hvort þeir hvettu fólk til þess að fylgjast með VERKALÝÐSBLAÐINU.



Baldur Guðbjartsson, iðnnemi hafði þetta að segja:
Mér finnst margar góðar greinar í hverju blaði og er frekar ánægður með Verkalýðsblaðið í heildina. Ég er sammála stefnunni sem kemur þarna fram í megin-málunum, þó svo það mætti setja hana betur og skemmtilegar fram oft á tíðum. Það er mikill kostur að blaðið er greinilega í beinum tengslum við starf og baráttu þeirra sem gefa það út – það er meira en hægt er að segja um blöð þingflokkanna.

En mér finnst líka vanta meira af vel undirbyggðum og fræðandi greinum í blaðið. Og svo vantar húmorinn – háðið um menn og málefni. Stundum þykir mér of mikið af þýðingum, t.d. um utanríkismálin.

Nú, blaðið kemur alltof sjaldan út og það vantar í það viðtöl við fólk í baráttu t.d. eins og í Bæjarútgerð Hafnarfjarðar um daginn.

Ég hvet fólk til að kaupa Verkalýðsblaðið. Þar kynnist það sjónarmiðum sem það þekkir allt of lítið.



Edda Atladóttir, iðnverkamaður tók fram að hún þyrfti meiri umhugsun til að geta svarað almennilega en sagði:
Ég er ekki nógu hress með blaðið. Mér finnst það oft of þungt og les það ekki allt. Helst les ég efni sem er tengt daglega lífinu, til dæmis efni af vinnustöðum, úr stéttarfélögum, frásagnir af verkföllum og fleira þannig.

Ég held að það þyrfti að vera meira af fyndnu og léttara efni í Verkalýðsblaðinu og svo líka meiri fjölbreytni.

Mér finnst hins vegar rétt að sem flestir fylgist með blaðinu.

Margrét Bjarnadóttir verkstjóri sagði:
Ég er mjög ánægð með Verkalýðsblaðið ef ég met það í heild. Yfirleitt er ég sammála því sem þar kemur fram og get í fljótu bragði ekki nefnt stóra galla á blaðinu. Málfarið er ágætt og mér þótti greinaflokkurinn um Kína sérstaklega góður og fræðandi.

Ég mæli eindregið með því við fólk að það kaupi blaðið. Það er nauðsynlegt.



Lilja Kristjánsdóttir afgreiðslustúlka.
Lilja sagðist yfirleitt vera ánægð með blaðið. Hún sagði að helstu kostir blaðsins væru fólgnir í því að blaðið væri opið fyrir því sem gerðist á vinnustöðum og í blaðið væri skrifað mikið um það óréttlæti og misrétti sem verkafólki væri oft á tíðum beitt á vinnustöðum.

Helstu gallar blaðsins taldi Lilja vera pólitískar öfgar. Sem dæmi nefndi hún skrif blaðsins um kosningarnar í Dagsbrún. Henni fannst of mikið hallað á B-listann, sem var skipaður mönnum sem vildu taka upp baráttu gegn forystunni í Dagsbrún. Skrif blaðsins beindust fremur að einstaklingum en málefnum, sem baráttan stóð um. Verkalýðsblaðinu bar að styðja þetta mótframboð, sagði Lilja, því stjórnin í Dagsbrún þarf að fá ákúrur.

Lilja sagði að það væri nauðsynlegt að fólk fylgdist með skrifum Verkalýðsblaðsins því það væri opið fyrir því sem væri að gerast á vinnustöðum og í gegnum blaðið gæti fólk fylgst með því hvað væri að gerast á öðrum vinnustöðum.

Pétur Gunnarsson, rithöfundur

Pétur sagðist ekki vera ánægður með blaðið, þar sem efni blaðsins höfðaði ekki nægilega til hans.
Helstu gallar blaðsins sagði Pétur að væru tvenns konar.

Frh. á bls. 7